Hálfd. J., H. J. & J. J.:

# Fjárbæklingur.

Ak. 1855.

# FJÁRBÆKLINGUR

eða

# LEIÐARVÍSIR

handa

þeim, sem vilja stunda

# fjárrækt.



AKUREYRI 1855.

Prentaður í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæm-
isins, af H. Helgasyni.

# Formáli.

*Á fundi, sem bændur í Ljósavatns-hrepp áttu með sjer á næstliðnu vori, vorum vjer, 5 menn, kosnir í nefnd til að semja ritgjörð um hirðingu sauðfjár, og um það, hvernig bæta mætti kyn þess; og höfum vjer 3, sem hjer undirskrifum, gjört tilraun til að rita um þetta efni fáeinar greinir.*

*Þó sauðfjárræktin hafi verið sá helzti og í sumum sveitum sá einasti atvinnuvegur vor og forfeðra vorra síðan landið byggðist, þá munu flestir engu að síður játa, að fjárræktin sje ekki í svo góðu lagi hjá oss, sem hún þyrfti og ætti að vera, þar sem öll búsæld og vellíðun eru undir henni komnar eins og er hjá oss, og því sje nauðsynlegt, að reyna til að þoka henni lengra áleiðis, ef nokkrir af löndum vorum væri þess umkomnir að gefa góðar og greinilegar reglur fyrir því. Að vísu eru til á voru máli bæði yngri og eldri ritgjörðir um þetta efni, og teljum vjer á meðal þeirra fjárbækling Magnúsar sál. Ketilssonar sýslumanns. Gefur hann margar ágætar reglur um meðferð á sauðfje, og eru þær byggðar bæði á reynslu sjálfs hans og ritum nokkurra lærðra merkismanna. — En það er hörmulegt, að slíkum ritum skuli enginn gaumur vera gefinn.*

*Þó vjer nú sýnum einlægan vilja með því að semja nýjan ritling um sauðfjárrækt, mættum*

*vjer ætla, að ómak vort verði ávaxtarlítið, fyrir því að vjer erum óvanir við, að birta hugmyndir vorar á prenti, og þess utan erum vjer svo óvíða kunnugir því ýmislega ásigkomulagi sveita og háttum.*

*Í þessum ritlingi vorum höfum vjer studzt við áður umgetinn fjárbækling Magnúsar sál. Ketilssonar, að svo miklu leyti, sem reynslu vorri og skynsemi ber saman við hann.*

Í desembermánuði 1854.

Hálfdán Jóakimsson. Helgi Jónasson.
Jón Ingjaldsson.

---

# Yfirlit efnisins.

## 1. atriði.

### Um ásigkomulag fjárræktarinnar.



## 2. atriði.

### Um það, hvernig góður fjármaður bætir kyn fjárins.



## 3. atriði.

### Um sumarhirðingu og afnot.

## 4. atriði.

### Um vetrarhirðingu sauðfjár.



## 5. atriði.

### Ýmsar athugasemdir.



---

# 1. atriði.
## Um ásigkomulag fjárræktarinnar.

### 1. grein.
### Yfirlit yfir fjárræktina.

þegar vjer gætum að því, í hverju ástandi fjárræktin er hjá oss nú, og hverjar orsakir sjeu til þess, að sauðfje vort gefi ekki af sjer meiri og betri arð, enn almennt á sjer stað, þá virðist oss að þetta sje nokkuð misjafnt eptir því, hvernig að landkostir eru; en þó er það komið að mestu undir viðurgjörningi og hirðingu á fjenu. þeir eru margir, sem jafnan ástunda að hafa svo nægan heyforða fyrir pening sinn, að hann með jafnri og svo góðri hirðingu, sem þeir hafa getað öðlazt þekkingu á, er optast í sæmilega góðu útliti og gefur af sjer viðunandi arð; en þá vantar samt má ske góðan fjárstofn; má og vera, að þá vanti líka margar nákvæmar reglur, sem heyra til góðri fjárrækt. Aðrir eiga skepnur sínar á vogun og hættu, svo að þær verða að líða hungur og hor, og ef til vill dauða, þegar blíða tíðarinnar veitir þeim eigi

fóður að mestu. Þegar svo er að farið, verða lömbin lítil og mögur og fá eigi til fæðu nema litla og ljetta mjólk úr mæðrunum; við þetta heglast þau upp með þeim mánaðar eða 5 vikna tíma unz þau eru tekin frá. Eru þau þá lítil, mögur og lúsug og stundum rekin til þreytu langa leið til afrjettar. Taka þau þar svona undirbúin litlum framförum, þá koma þau heim aptur á haustum til efnalítillra eigenda, er ætla þeim lítið fóður, svo að þau fara á mis við allan þroska hinn fyrta vetur, og verða ef til vill kraptalítil. Hinn næsta vetur eru gimbrarnar þegar látnar fá lömb, þó viðurgjörningurinn taki engum umbótum. Með þessum hætti geta skepnurnar engan veginn gert það gagn, sem þær annars gætu gjört með góðum viðurgjörningi. Hjer á við það, sem Þórarinn Liliendal segir: „— Á sama hátt vantingast og skepnurnar þegar þær brestur ánægjanlegt og gott fóður, svo þær verða minni og lakari að öllu, enn hinar, sem þær eru af komnar.“ Það er órækur sannleiki, að meiri er ábati að því, að hafa færra fje, en veita því betra fóður. Þá eru og þeir, sem hirða svo illa skepnur sínar, að þær jafnvel falla af hor, þó þær hefðu haft nægilegt fóður með góðri hirðingu; og ætti aldrei fjárhirðing að vera í slíkra manna höndum.

Þannig komumst vjer að þeirri niðurstöðu, að fjenaður er víða hvar of margur í samanburði við

heyföng, og verður því fjöldinn fremur til að vana búsældir manna, enn efla. [1]

## 2. grein.
## Helztu tilraunir til að bæta fjárkynið.

Sumir menn hæla því, hvað fjárræktinni hafi farið fram hjá oss um undanfarin ár; má og vera að svo sje í sumum sveitum, og á einstökum heimilum í öðrum. Víst er um það, að fjárhúsabyggingar eru nú víða orðnar betri, enn þær áður voru, og styður það ekki alllítið að góðri meðferð á fjenu og arðsemi af því. Þó eru þau helzt til of víða enn í ólagi, svo mikið tjón er að; enda höfum vjer eigi orðið þess áskynja, að yfirvöld vor hafi hlutazt til um að tilsk. af 1776 um fjárhúsabyggingar væri hlýtt [2], jafnvel þó tilsk. þessi sje góð og þarfleg. Margir hafa líka verið sjer úti um hrúta til framtíngunar af hinu góða og arðsama Jökuldals fjárkyni. En það verður þeim einum

[1]) Vjer hyggjum að fjenaður hjer á landi mætti þó jafnvel vera töluvert meiri enn nú er, þegar almennt væri farið að stunda jarðyrkju og þó gjört fullkomið gagn. Það sýnir oss dæmi Guðmundar bónda á Háafelli, sem átti veturgamalt, sem annara tvævetra sauði og ær, sem mjólkuðu svo undrum sætti, þegar hann var búinn að girða, sljetta og rækta tún sín fjenaði sínum til nægilegs fóðurs. Sjá Hugvekju Johnsens.

[2]) Sjá alþingisb. 1776 sbr. Hugv. Johnsens og fjárb. M. sýslum. Ketilssonar.

að góðu liði, sem vel kunna með að fara; því þetta fjárkyn þarf gott uppeldi og umhyggjusama meðferð, ef það á eigi fljótt að úrkynjast bæði að vexti, ull og mjólk; en svo er sumt fje þetta lagið til holda, að það heldur þeim lengst, jafnvel þó það tapi öllum öðrum kostum, sem því eru eðlilegir. Og er það sumra ætlun að það sje hinn eini kostur þess; en sje svo að það vanti hina aðra kosti, sem opt verður raun á, þá veldur því brestur á góðu uppeldi. Það fer að líkum, að margur óreyndur fjármaður kynni að ætla það nægi, að hið feitlægna fjeð sje jafngott að holdi og megringsfjeð til þess að það nái sínum eðlilegu framförum eins og það; en þetta getur því að eins orðið, að því sje haldið þeim mun feitara sem það er holdlægnara. Á hinn bóginn er það í augum uppi, að misjafn hljóti að vera sauður í þessu fje sem öðru, og ekki geti verið einhlítt hverjum einum, með áðursögðum hætti, að bæta fjárstofn sinn, er hann þekkir eigi kynferði þess hrúts, sem hann fær að. Má það opt verða, að hrúturinn eigi illa við, svo hann spylli í ýmsu kyni því er hann átti að bæta. Engu að síður eru þessar tilraunir að bæta fjárkynið lofverðar að nokkru, ef eigi vantaði hjá allflestum það, sem mestu varðar, en það er gott uppeldi.

## 3. grein.

## Hvað er góð fjárrækt?

Góð fjárrækt er fólgin í þessu þrennu: að vanda fjárkynið, eða hafa fjárstofninn góðan, ala fjeð vel upp, og hafa á því góða og nákvæma hirðingu. Til þess að vanda fjárkyn heyrir eptirtekt á eðli og ættliðum fjárins; en þá er gott fjárkyn, þegar allir kostir þess eru sem jafnastir, sem eru mjólk, ull og hold eða fita; þó er mjólkin dýrmætust. Vjer getum eigi ákveðið, hve miklir þessir kostir megi verða; það verður langvinn reynsla með góðri fjárrækt að sýna.[1]

## 4. grein.

## Orsakir til apturfarar fjárins.

Vjer efumst eigi um, að kostir fjárins hafi verið miklu meiri, enn nú eru þeir, enda heyrist

---

[1]) M. sýlum. Ketilsson, sem ólst upp í Norðurlandi, segir, að þar hafi verið títt, að ærin mjólkaði 2 merkur og þó fleiri 3; en margar 4 til 5 merkur í mál, og sauðir hafi skorizt þar með 2 fjórð. mörs. Þetta var í landkostasveitum, og voru ær þó fóðraðar að mestu á heyi að vetrartímanum; því hann segir, að hverri á hafi verið ætlaðir til fóðurs 3 til 4 hestar heys, en lambi 1 til 2 hestar. Af þessu má og ráða, hvað vel að lömbin hafa verið undirbúin af ánum. Þetta er ærið mikill munur í samanburði við málnytu þá, sem nú er í flestum sveitum, þar sem nú þykir góð málnyta, ef 1 mörk mjólkur fæst eptir ána í mál til jafnaðar. Óvíða eru og sauðir jafngóðir og þá, að þeir skerist með [illegible] fjórð. á 2 mörva.

og sú almenna umkvörtun, jafnvel þeirra manna, sem ekki eiga mörg ár að baki, hve mjög málnytunni hnigni. Og ber margt til þess. Sumstaðar ganga hagar af sjer af völdum náttúrunnar; en þó víða af því þeir eru of settir; einkum er það vetrarbeitin, sem spillir högum; þegar búsmala er haldið til hennar með harðræði í litlu landi, einkum þá vont er til haga sökum herslu og snjódýpis, gengur sauðurinn þá svo nærri rótinni að flag verður eptir, eða seint grær, ef land er viði eða lingi vaxið. Nú er og fje miður uppalið og minna hey gefið. Að lyktum getum vjer þess, að margir hafa leiðzt í þá villu, að sækjast mest eptir, að eignast holdseigt fje, hvað sem mjólkinni líður, vegna þess það þolir mest harðræði. En þetta er öfug aðferð við fjárrækt; því þegar eitt sinn er fengið gott mjólkurfje, þá verður hitt auðveldara, að fá hold og ull á eptir vegna þess, að lömbin ná þá strax góðum þroska, sem mestu varðar.

---

## 2. atriði.

## Um það, hvernig góður fjármaður bætir kyn fjárins.

---

### 1. grein.

### Kostir góðs fjármanns.

Fjármaður skal vera árvakur, þolinmóður,

fjárglöggur, aðgætinn, reglufastur og vandvirkur í hirðingu fjárins og hafa kærleika til þess. Og með því að margbreytt þekking bæði á eðli fjárins og hvað því hagi og reynsla á því að nota rjett hinar almennu reglur eins og bezt á við í hvert skipti, útheimtist til góðrar fjárræktar; þá þarf fjármaðurinn að vera námfús og íhugunarsamur.

## 2. grein.

## Að bæta sauðfje eptir ráðum M. sýslumanns Ketilssonar.

Það má með mörgu bæta fje, og hefur það tekizt mörgum góðum fjármanni; en aldrei má vanta gott uppeldi. Magn. sýslum. Ketilsson segir, að það geti hver maður með sínu eigin fjárkyni, og erum vjer á því máli. Maður skal velja nokkrar ær úr fje sínu, taka þær frá og ala þær. Til þess skulu verða valdar allar þrifa- og mjólkur-ær, sem sjeu af hraustu hörðu kyni og happagóðu til undaneldis; því óhöpp eru ættgeng sem aðrir ókostir. Undan þessum ám ali hann hrúta til brúkunar; en gimbrum undan þeim hleypi hann eigi til fyr enn á þriðja vetur. Þessum stofni haldi hann við og auki með sögðum hætti. Þessum 6 ám ætlar Magn. sýslum. kýrfóður af heyi frá veturnóttum til krossmessu; en vjer hyggjum að fyr mætti vel duga; segir

hann að engin kýr mjólki þá á við þær[1]. þetta væri nú óneitanlega gott, ef nokkrir vildu og gætu framfylgt því; en svo mun verða fyrir allflestum, meðan heyföng eru ekki meiri, enn nú er almennt, að þeir mundu kjósa, að láta fje sitt allt hafa jafnt fóður, en að setja sumt á hættu, eða fækka því mjög. þó geta nokkrir, sem hafa mikil heyráð, gjört þessa tilraun, án þess annað fje þeirra skorti fóður.

## 3. grein.

## Um meðferð á mjólkurám og að þekkja kyn þeirra

það er án efa góð regla, sem flestir eru nú farnir að hafa, að ala vel brundsauði; en það verður að litlu liði, þegar ærnar fæða eigi lömbin vegna megurðar, því þá kemur strax kirkingur í þau. og búa þau að honum meðan þau lifa. Bogi, sænskur herramaður, segir, að sauðurinn búi að þeim vexti og kröptum til fullorðinsára, sem hann fái fyrstu 14 dagana; og Ólafur stiptamtm. segir, að eptir því verði sauðurinn vænn gamall, bæði að mjólk, ullu og holdi, sem hann eigi fyrsta árið. Og er þetta órækur sannleikur; því undirstaðan til góðs uppeldis er sú, að

---

[1]) þessa aðferð kallar M. sýslum. framtingun og höfum vjer viðhaft orð þetta í þessari þýðingu víða í ritlingi þessum.

lömbin fái nóga mjólk úr mæðrunum strax eptir burðinn, og eptir því, sem þau hafa hana meiri og lengur, eptir því verða þau fóðurljettari og vænni að vetrarlaginu. það má því án efa bæta fje einkanlega að mjólk, ef beztu mjólkurærnar væru ætíð hafðar sjer í húsi, og ætlað meira fóður, svo þær væru ætíð í góðu útliti í stað þess að þær verða opt magrastar, eins og fer að líkum, þegar þeim er ekkert mismunað við hinar, sem ekki mjólka helming eða þriðjung við þær. En ef þeim er mismunað borga þær það margfaldlega; því engin skepna launar eins vel gott fóður og góð mjólkurær með því, að koma upp efnilegu lambi, og þannig eflist fjárkynið að fleiri og fleiri kostum með góðri meðferð lið eptir lið. Mega menn opt komazt að raun um, að vænstir eru sauðir, sem aldir eru undan góðum mjólkurám.

Fyrir því er hart mjólkurfje bezt lagið til að taka umbótum.

það vill opt til, að góð mjólkurær-efni bera af öðrum veturgömlum ám; en verða magrar, þegar þær fara að mjólka, af því þær vanta þá svo gott viðurværi, sem þær þurfa, og eru vegna þess álitnar horær. Undan þessum ám skyldu menn þó kosta kapps um, að hafa hrúta og ær til framtingunar. ef engir stórgallar eður kvillar eru því til fyrirstöðu, sem vandlega þarf að að-

gæta, því það er sannreynt, að sauðurinn sækir gallana í 4. og 5. lið og jafnvel 6. og 7. Þess vegna ríður það á miklu, að þekkja vel ættliði fjárins og skrifa þá sjer til minnis. Þetta er hægast með því að auðkenna lömbin meðan þau ganga undir ánum [1].

## 4. grein.
## Um fjelagsskap til að bæta sauðfje.

Það er orðin sannfæring allra, sem stunda vel fjárrækt, að það megi bæta fjeð með því, að ala vel hrútana, og þetta er svo í raun og veru, þegar fleira er í góðu lagi, eins og áður er sagt. Þá liggur það í augum uppi, að það varðar eins miklu, að brundsauðir sjeu undan veluppöldum og kyngóðum ám; og geta menn valið þær af sínu eigin fje, sem þeir þekkja; en þó bezt með því móti, að þeir styrki hvor annan og gangi í smá fjelög. Í hverju fjelagi skyldu t. a. m. vera 6 til 8 búendur; af þeim sjeu kosnir 2 glöggustu og beztu fjármennirnir, til að skoða fje þeirra allra og velja úr því, eða útvega annarstaðar, ef ekki líkar, svo sem 2 ær handa hverjum fjelags-

[1]) Auðkenna má lömb bæði á hornum og eyrum með skrúðum ýmislega litum; en varast þarf, að skrúðinn sje svo stuttur, að hnútarnir á endum hans liggi fast við eyrað; því þá er hætt við að grafi í því, svo að skrúðinu detti úr og verði gat eptir, sem valda má skaðlegri markvillu.

manni. Þær eiga að vera svo fullkomnar að öll-um kostum, sem hægt er. Þessum ám skyldu fjelagsmenn byggja vandað hús á heimili ein-hvers þeirra, sem beztur væri hirðir og kosinn væri til þess áður; afla þar fóðurs eða flytja þangað. Þarf fóðrið að vera gott og mikið, svo vel megi gjöra við ærnar. Þá skyldu umsjón-armenn velja fallegasta og kyn bezta hrútinn, sem þeir gætu fengið og ala hann á sama stað handa þessum ám. Þegar sumarið kemur, skulu allar ærnar ganga með dilka í góðu landi. Að hausti skulu umsjónarmenn útbíta eptir beztu sanngirni og þekkingu milli fjelagsmanna dilk-hrútum þeim, sem þeir hafa eignast undan án-um, án þess hver hljóti framar þann hrút sem er undan þeirri á, er hann lagði til, enn ann-ari; heldur skal það fara eptir því, sem menn ætla, að bezt muni eiga við fje hvers eins; því það er aðalregla að hrúturinn sje sem fjærskyld-astur ánni og úr öðrum kynþætti. Fylgja þeirri reglu allar þjóðir, sem stunda vel fjárrækt. Til að geta forðazt skyldugleikann þyrftu fleiri fje-lög að vera í sambandi sín á milli, svo að þau gætu skipzt á um þessa útvöldu hrúta eins og bezt þætti haga. Gimbrunum skal ætlað hús og vetr-arforði á öðrum stað í umdæmi fjelagsins. Þar sjeu þær vel fóðraðar og hirtar þangað til þær eru á 3. ári; þá skulu þær færast á fjelagshús-

ið, sem fyr var nefnt, og fá lamba; en ekki fyr, svo þær hafi náð fullri framför. Þriðja húsið skal nú byggja, svo að eitt sje fyrir lambgimbrar, annað fyrir ær á 2. vetur og hið þriðja fyrir fullorðnu ærnar.

Sjerstakt fjármark skal hafa á þessum kindum. Ull þeirra og því, er misferst af þeim undir manna höndum, skal varið til að kaupa aptur í skarðið, svo jafnan sjeu 2 ær mylkar, 1 geld og 1 lamb handa hverjum fjelagsmanni að frátöldum hrútunum, sem þeir á ári hverju skipta á milli sín, og rosknu ánum, sem þeir taka heim til sín. Ef til vill þykir þetta kostnaðarsöm og margbrotin aðferð, en oss virðist sem hún gæti fljótast náð tilganginum og víðast orðið viðhöfð, og mundi reynslan sýna að þeim kostnaði og fyrirhöfn væri vel varið, ef að einhverjir rjeðust í slíkt.

## 5. grein.

## Um að velja mjólkurær.

Þeir menn eru til, sem þekkja svo vel eðli sauðfjár, að þeir geta sagt það um lambgimbrarnar þegar, hver muni annari betra ærefni til mjólkur, þó þeir sjeu ókunnugir fjárkyninu. En gáfa þessi er fáum ljeð og styðst ekki við neinar greinilegar reglur. Það sem vjer getum leiðbeint öðrum í þessu efni, er helzt það, að þeir skoði veturgamlar ær sínar á hausti; munu þær reynast

bezt fallnar til mjólkur, sem hafa vænt júfurstæði; stóra lauslega spena og eru holdmjúkar bæði á baki og í bringu, en stamt eða þerrið holdafar, er meir lagið til þrifa, enn mjólkur.

## 6. grein.
## Um að velja hrútsmóður.

Hrútsmóðir á að vera stór vexti, og allt vaxtarlag hennar svara sjer sem bezt. Hún sje þykkvaxin og hraustleg, snögg og sljetthærð í framan með vangaskegg fram að augum. Ullin a henni skal vera þelmikil og illhærulaus með hrokknu togi og stórgerðu í meðallagi, sem sje jafnsítt fram og aptur. Ærin skal fyllast snemma og halda vel ullu, vera vel loðin og þjetthærð á bringu og kviði. Bakið og bringan eiga að vera í meðallagi breið, holdið gróið enn þó kramt og fitulegt. Þess utan sje bringan stutt og holdmest að framan, teinarnir liggi út á við þó mest að aptan. Feitieitlar skulu vera á röðum bringunnar og lausleg flipa neðan á henni. Ærin á að hafa mikinn enn linan kvið, lítil horn með smágjörðum liðum og lág eyruð. Fullorðinn hrútur á að samsvara gjörsamlega þessari lýsingu að því leyti sem orðið getur.

## 7. grein.
## Um að velja brundsauði nýborna.

Jafnóðum og ærnar bera, ber mönnum að

hugsa fyrir því að velja sjer brundsauði, og skulu þeir heldur ætla þá fleiri enn færri. Fyrst þarf að gá vel að kyni ærinnar; því, eins og vjer höfum áður sagt, verður að varast alla stórgalla; en opt kann að mega fá full þóknanlegt lamb undan þeirri á, sem ekki er hæfileg til framtingunar. Hrúturinn skal hafa þessi kennimerki: að hann sje brúnsljettur borinn, með stórt höfuð, breitt enni, stór, dökk og fjörleg augu, breiða snoppu, digrar og snubbóttar nasir, nokkuð langan og digran háls, þykka bóga, sívalan búk, mikinn kvið, en stutta huppa, jafn hár en þó söðulbakaður. óhokinn í limum með rjettum fótum, kjúkum og klaufum, stórhrokkinn á ullu, en þó smáhrokkinn í vöngum og á hnakka, með síðan hrokkinn pung og stóra spena.

þau lömb, sem hafa flest þessara kennimerkja, skyldu vera brundhrútar, en ekki mega þau vera af mislitu kyni. Mikið ríður á því, að þessi hrútslömb fái næga mjólk og verði gomul undir ánum, svo að þau fái strax vöxt og krapta.

## 8. grein.

## Um meðferð og brúkun á hrútum og fl.

það þótti fyrrum mesta fásinna og fjenu til spillingar, að brúka lambhrúta til ánna, og var það fyrirboðið af stjórn lands þessa með brjefi til stiptamtmanns af 2. marzm. 1776. En vjer getum

eigi eptir reynzlu vorri ætlað, að það spilli fje, ef lambhrútur er dilkur, eða vel alinn og ekki brúkaður nema lítið og með reglu, þannig að ær sjeu leiddar til hans og ekki fleiri, enn 1 eða mest 2 á dag, og að samtöldu eigi fleiri enn 10 til 15. Verða þá lömb þeirra fult eins stór og falleg eins og undan eldri hrút væru. Það er auðvitað, að brúkun hrútsins á að fara eptir því, hvernig hann er uppalinn og undirbúinn; en því betra er, sem hann er minna og reglulegar brúkaður á hverjum helzt aldri. Engu að síður er það óneitanlega gott, að brúka ekki hrút fyr, enn hann er orðinn full-orðinn í því tilliti, að betur mætti koma í veg fyrir hina ýmsu kvilla fjárins; því opt drepast hrútar eptir að þeir hafa verið brúkaðir, þegar það er byrjað meðan þeir eru ungir og er það þá eðli-legt, að það leggist í ættir. Hastfer ætlar hrútn-um eigi fleiri, enn 15 ær, og vill eigi að hann sje brúkaður fyr, enn á 3. vetur, þegar hann talar um, að framtinga fje; en jafnaðarlega mun mega ætla fullorðnum og vel uppöldum hrút frá 30 til 40 ær á vetri og þó ekki fleiri enn 80 yfir allan aldur hans. Sje hrútur frekar brúkaður, enn hjer er sagt, má ei vita nema það valdi apturför fjár-ins. Má og opt sjá að fyrsta lamb hrúts verður honum líkast, og fer þá að líkum, að lömbin verði honum ólíkari eptir því, sem hann er meira og óvarlegar brúkaður. — Hlífa skyldi uppáhalds-hrút

við því, að leita uppi ærnar, og má til þess hafa frægelding, eða þann hrút, sem væri lítið brúkaður til annars. Engum hrút skal ætlað, að lembga fleiri, enn 4 ær á dag og eigi fleiri, enn 2 í senn, og hvíla hann heldur 1 eða 2 tíma, og gefa honum hey. Sje fleiri ám hleypt til sama hrúts í einu, þá er það opt, að einhver þeirra beiðir upp; því skulu ærnar standa inni þann dag, sem þeim er hleypt til á, svo þessum reglum verði á komið.

Í svölu húsi og björtu skal geyma hrúta; gefa þeim vandað og hollt hey, og forðast, að gefa súrt að drekka; það er gott að blanda handa þeim með mjólk og það bætir heilsu þeirra, að salta drykkinn nokkuð handa þeim. Það er og ákjósanlegt, að gefa þeim nýtt hrossakjöt; verða þeir af því fjörugir; líka mega þeir drekka soðið af því, ef í það er sáð salti. Ekki skal brúka sama hrút, optar, enn 2 vetur til sömu ánna.

Nokkrir vísindamenn í fornöld hafa skrifað um það, hverjar orsakir væri til þess, að fleiri fæddust hrútar eða gimbrar. Og hafa þeir Aristóteles, Jóhann Johnston og sænskir menn verið þeirrar meiningar, að sje ám hleypt til í sólskini og og þegar norðan átt gengur, þá verði hrútlömb miklu fleiri, enn gimbrar þar á móti fleiri, ef ær fá í sunnanátt. Og þetta þykist amtmaður Ó. Stefánsson hafa reynt sannindi. Vjer höfum eigi veitt þessu eptirtekt til hlítar. Aðrir segja, að hrútar

komi fleiri ef ær fái með ungu eða vaxandi tungli, en gimbrar, ef þær fái með gömlu. En þetta hefur reynzlan eigi sannað oss. Enda verður eigi farið eptir þessu, þó að einhver vildi eignast fleira af öðruhverju kyni; því um venjulegan tíma verður að hleypa fjenu til, hvernig sem á tungli eða veðuráttu stendur. En ef brundhrútur er undan þeirri á, sem optast eða ætíð fæðir hrútlömb, þá munu fleiri hrútar koma undan honum, og á hinn bóginn fleiri gimbrar, ef móðir hrútsins á optar gimbrar.

## 9. grein.

## Um að ala ekki upp undan gömlum ám.

Það skyldu menn varast, að ala upp undan þeim ám, sem apturför er komin í; veldur það apturför og rírnun í fjenu, einkum á ullu, og má sjá þessa rírnun strax á lömbunum, og helzt hún við þau allt af, auk þess sem þeim fer fyr aptur; og fer þessu fram lið eptir lið þar sem um ær er að gera. Enginn skyldi láta ær verða eldri enn 6 til 8 vetra eptir því, sem hagar til í hverri sveit. Sýslumaður M. Ketilsson vill ekki heldur láta ala undan tvævetrum ám; og eru lömb þeirra opt rírlegri, enn hinna, sem miðaldra eru; þó ætlum vjer að það komi að minni sök, þegar ærnar eru vel uppaldar, enda eru lömb þeirra vel ulluð, jafnvel þó ánum sje hvergi fullfarið fram á þeim aldri.

### 10. grein.

### Um að láta lambgimbrar fá.

Það er lítill ábati að hleypa til gimbrum á 1. vetur, því þá þyrfti vel að ala þær hinn 1. og 2. vetur ef þær eiga að ná fullum þroska, og alls enginn ætti að gjöra það nema ef til vill þeir, sem hafa mikil heyföng og þurfa nauðsynlega að fjölga fje sínu. Þó skyldi sjerhver, sem tekur þetta ráð varast að láta gimbrar bera fyr, enn í 5. eða 6. viku sumars.

---

## 3. atriði.

## Um sumarhirðingu á fje og afnot þess.

---

### 1. grein.

### Um burðartíma lambfjár og útilegu.

Það er ervitt, að gefa vissar reglur fyrir því, hve nær bezt er að láta ær bera, því það fer eptir því, hvernig vorin verða. Það er sjálfsagt, að snemmborin lömb verða vænni, þegar þau fá strax næga mjólk, enn hin síðbornu; en út af því ber opt í vondum vorum og það svo mjög, að ám og lömbum jafnvel verður hætt. Þau lömb verða betri, sem eru borin í 4. og 5. viku sumars og fá þegar mjólk, enn hin, sem í 2. og 3. viku fæðast, en lenda strax í sveltu. Fyrir því verður hver að haga sjer í þessu efni, eptir heyföngum sínum og venjulegum veðursældum hverrar sveitar.

Bezt fara þau lömb með sig, sem úti eru borin, og lítið, eða ekkert þurfa að vera inni. Ærin fer líka seigt með að fæða lambið, ef hún lítur vel út, þó hún ekkert hey hafi, þar sem nokkur taug er í landi; enda er sú mjólk kraptbetri, sem ærin mjólkar um burðinn af góðum holdum, enn mögur af heygjöf. það má furðu gegna, hve lamið berst vel af, þó það sje borið úti í vondu veðri og snjó; þó ráðum vjer engum til að beita þeirri hörku við skepnur sínar, ef að þeir eiga annars úrkosti, að láta ær bera úti þegar svo viðrar. þó verða þau lömb, sem fæðast þannig upp með móðurinni úti, hörðustu skepnur og ganga vel hinn næsta vetur; er því bezt þegar ær bera úti, að hýsa þær ekki fyr, enn í fullar þarfir, og ef hýsa þarf, skal hafa lömbin sjer í húsi; en hleypa þeim undir ærnar eigi sjaldnar, enn fjórum sinnum í sólarhring þangað til þau eru vikugömul.

## 2. grein.

## Um broddsótt og meðferð á unglömbum.

þegar ær bera úti, hafa fengið gróður og eru í góðum holdum, kemur opt stálmi og broddur í júgrið einkanlega á 2vetrum ám. Er þá nauðsynlegt að ná úr þeim broddmjólkinni áður enn lömbin sjúga, fá þau þá síður broddsóttina. það þarf alvarlega aðgæzlu við að hafa, að hún

skaði þau eigi og, ef til vill, drepi. Varast skal að handvolka lömbin, þegar hjá því verður komist, meðan þau eru eigi orðin þur og búin að fylla sig. Það er þeim skaðlegt, þegar hörð vor eru og allar ær bera inni og jafnvel þarf að hýsa og gefa geldfje, þá eiga flestir erfitt með gott húsrúm fyrir lambfje, sem þó er ómissandi ef vel á að fara, því hver ær þyrfti að vera ein sjer meðan lambið er dálítið að stálpast; því eigi má stíja þeim fyr, enn þau eru 3 nátta. Væri þá betra, að skera lamb undan annari hvorri á og láta 2 ær fóstra hvert 1 lamb. Með því væri hvorumtveggja heldur borgið. [1]

## 3. grein.
## Um að gelda lömb.

Flestir bændur bera skin á, að betra er að gelda lömb áður enn þau verða mjög feit, og líka betra að gjöra það með minnkandi tungli, og velja til þess kyrt og gott veður. Þeir, sem stíja lömbum, gjöra það að kvöldi og láta lömbin jafnótt

[1]) Vjer höfum þekkt gamlan bónda, sem hafði þá reglu, að skera undan nokkrum af ám sínum, á hverju vori, sínum í hvert skipti. Sagði hann að ærnar yrðu við það vænni, og hann hefði eins mikið, eða meira gagn af þeim allt vorið, enn þó hann skæri lömbin á haustin. Átti hann þó optast fjenað sinn í góðu útliti, enda bjó hann á heyskapar- og sjóar-jörð og var góður búmaður.

í króna. Sumir ætla, að betra sje að reka þau dálítið, svo blóðið leiti síður inn. Varast skal að gelda móð og heit lömb af hlaupum, einkanlega ef þau eru feit; því þá má verða, að þeim sje bani búinn samdægurs. Og sú aðferð er bezt, að sleppa hverju lambi til móðurinnar, þá búið er að gelda það; en róta sem minnst við fjenu fyrsta dægur.

## 4. grein.
## Um stíun á lömbum.

Það hefur verið almennur siður, að stíja lömbum um lengri eða skemmri tíma fyrir fráfærur. Sögðu gamlir menn, að lömbunum færi þá betur fram, og þau lærðu betur að bíta grasið, þegar tekið væri frá þeim nokkuð af mjólkinni. Nú eru sumir farnir að hætta þessari reglu, og ætla að lömbin verði vænni við það, að þau fái alla mjólkina meðan þau eru undir. Vjer ætlum, að þessu mætti haga eptir tíðarfari og útliti á ánum. Lömbin ganga harðara að ánum þegar mjólkin er tekin frá þeim, verða þær því örsuga og lömbin mögur, þegar þær eru holdgrannar fyrir og tíðarfar illt, en þegar ær eru feitar og góður er gróður, svo að lömbin hafi næga mjólk, þá leggja þau sig miður að jörðinni og bregður meira við, þegar þau eru tekin frá, og taka því minni framförum fyrri hluta sumars. Það mundi því eins

gott, að taka nokkuð af mjólk frá þeim seinustu vikuna, einkanlega þar, sem ær hafa góða sumarhaga. Í landljettum sveitum mjólka ær bezt um stekktíma og eptir hann, þegar þær líta vel út, og mætti því líka taka mjólk frá lömbum, þar sem svo á stendur. Magnús sýslum. Ketilsson vill, að öllum lömbum, sem 3 nátta eru, sje stíjað þá fardagar eru komnir; en ekki skuli þau lengur vera í krónni, enn 8 tíma í hið mesta; eigi heldur vill hann að tekið sje af mjólkinni nema það, sem lömbin leifi fyr enn seinustu vikuna, og skal þá mest taka seinast. Með þessari aðferð, segir hann að lömbunum fari bezt fram, og verða þau þá, ef til vill, hraustari. Vjer höfum ekkert á móti þessari aðferð, ef eigi væri út af henni brugðið.

## 5. grein.

## Um lambakrór.

Um lambakrór er það að athuga, að þær sjeu rúmgóðar, svalar og þurrar. Ef menn hafa eigi beitarhús, að stíja við, er bezt að hlada krórnar á sljettu og hafa op upp úr þeim, svo eigi verði of heitt í þeim. Veggir þurfa að vera 2 álnir á hæð, svo ærnar hlaupi ekki á þá; en til þess að halda þeim þurrum, verður smásaman að flaga úr þeim taðskófina og stinga upp gólfið; þurkar þá moldin bleytuna. Í vondu veðri skal eigi stíja.

## 6. grein.

## Um fráfærur.

Við fráfærur er sú aðferðin bezt, að láta lömbin hlaupa um stekk; en sitja ærnar. Lömbin skal taka að kvöldi um venjulegan stíunartíma, þegar stíjað hefur verið; en ær látnar vera á stekknum um nóttina. Þá skal reka ær snemma heim að morgni, svo lömb verði útlátin sem fyrst. Hið næsta kvöld er bezt að hýsa lömbin í krónni, þegar því verður viðkomið og má eins fyrir því hleypa ánum á stekkinn, og kemur að engri sök, þó hvor heyri til annara. Þegar ekki hefur verið stíjað, er bezt að taka lömb frá að morgni og sitja ær eins og áður er sagt; en láta lömb vera þar, sem þau eru tekin frá, því ekkert fara þau. Það er skaðlegt að reka lömb til afrjettar með jarminum; þau lýjast þá og mæðast meir; en þegar þau hafa hvílzt um tíma þar sem við þau er skilið í afrjett, renna þau með jarmi í allar áttir; og er eigi ólíklegt, að þetta valdi því, að þau heimtast illa að hausti. Mundi það því betra, að láta þau vera á stekknum, eða í kunnugu högunum 1 eða 3 daga áður, enn þau eru rekin á fjall. Reka skal með hægri ferð í svo góða haga, sem fengizt geta, vera svo hjá þeim meðan þau hvílast dálítið, stöðva þau í haganum og dreifa vel úr þeim.

## 7. grein.

## Um lús á vorlömbum.

það er alltítt, að lús komi á lömb á vorum, einkanlega þegar þau þurfa, að vera mikið inni, og stundum eru þau borin með lús, þegar ær eru magrar og hafa haft íllt fóður. Og er þá eigi kyn, þótt þau verði lúsug aptur á vetrin, með því þau fá þá ekki svo góð hús og hirðingu hjá öllum, sem vera ber. það er mikil bót við lús þessari, að bera vel í lömbin meðan þau eru undir ánum, lúsameðal það, sem nú tíðkast að brúka á vetrum, og mun þó bágt að eyðileggja hana með öllu, þó þannig sje að farið. Magnús sýlsum. Ketilsson segir, að útlendir menn brúki keitubað, og sú aðferð er eflaust einhlítari. Hann segir svo fyrir: Vel stæka keitu skal heita, og því betra að sjóða þang eða viðarösku í henni. Rusl það, sem ofan á sezt skal í burtu færa; en steypa þvælinu í fullstórt ílát, og skal það eigi heitara, enn nýmjólkurvolgt. Síðan tekur einn maður lambið og lætur það á bakið ofan í; en annar þvær sem bezt kroppinn. Varast þarf, að láta nokkuð fara í skilningarvit þess. þá er lögð fjöl yfir ílátið, og lambið lagt á og strokið sem bezt af því. þannig skal taka hvort eptir annað. þetta á að gjöra í góðu veðri, þegar búið er að taka lömbin frá. þegar lömbin eru þur orðin, er eflaust gott, að hella ofan í þau eptir

hriggnum 1 spæni af hákallslýsi, því það bætir ullina. Þegar svo er aðfarið, hefur það reynzt, að lús kemur eigi á lömbin hinn næsta vetur, ef að þau fá góð hús og hirðingu. Tóbaksblaðaseyði er líka óbrigðult lúsameðal eptir því, sem Magnús sýslum. Ketilsson segir.

## 8. grein.
## Um að sitja kvífje.

Það sjá og viðurkenna allir, að nauðsynlegt er, að sitja málnytupening á sumrum, jafnvel þó fáir hafi þá reglu; líða þess vegna búendur tvöfaldan skaða á málnytu og þar að auki mikið tjón á annari vinnu, þar sem fjalla lönd og heiða eru og fjenaðarferð erfið. Ber það þá opt við, að taka þarf einn hestinn af öðrum til leita, og einn maðurinn að taka við af öðrum, og dugir þó ekki á stundum. Ýmist tapast sumt af fjenu alveg á fjall, ýmist finnst löngu seinna og þá orðið gagnlítið; en af því, sem helzt víst, missist hálft gagn. Oss virðist því, að 1 maður, sem opt getur verið unglingur, geti eigi gjört búanda meira gagn, enn það að vera framanaf sumri hjá fjenu. Þó fjeð þyrfti að standa í kvíum um nætur, yrði það minni skaði, með því að því yrði þá haldið í beztu högunum á daginn, og ætíð yrði þá mjólkað á rjettum tíma. Þar að auki yrði talsverður ágóði af því sem ræktast, ef færi-

kvíar eru viðhafðar. Þó er eigi til þess ráðandi að láta ær standa í færikvíum um nætur á bersvæði í kulda og votviðrum, einkum ef nýlega er búið að taka ull af þeim. Eigi má heldur viðhafa þessa reglu þar sem mývargur gjörir skepnum ónæði, því þá hafa þær stundum ekki frið til að jeta nema á nóttunni. Og þarf þá maðurinn að fylgja því bæði dag og nótt. Ef gengið er með fje framan af sumri, spekist það og er því heldur gjörlegt að sleppa því, þegar heyannir byrjast.

## 8. grein.
## Um misjöfn afnot af fje eptir því hvernig með það er farið.

Vilji menn reyna til, að koma sjer upp betra fjárkyni, hljóta þeir að byrja á því, að fara vel með lömbin, eins og áður er áminnst, og framhalda því[1]. Vjer segjum eigi, að menn skuli halda fje sitt allt eins, og má fyr kalla, að það sje vel haldið. Þó þarf ærin að vera í því útliti, að hún komi vel upp lambi sínu, og sauðurinn, að enginn apturkippur komi í hann á meðan hann er á framfaraskeiði. Reynslan hefur sannað það til hlítar, að ef miður er gjört við fjeð, verður enginn ábati að því, þó það sje fleira. Bogi, sænskur maður, segir að 20 ær velfóðraðar gjöri meira gagn, enn 50 illa-fóðraðar, og má

---

[1]) Sjá 2. atriði 4. gr.

þetta til sanns vegar færa, þó eigi færi svo, sem opt verður, að ær verða svo magrar, að sumar falli, en sumar fæði ekki lömb sín. Vjer tökum til dæmis í landljettum sveitum að 50 ær skyldu vera, eins og komist er að orði, dregnar undan dauðanum, svo þær varla þoli gróður þegar hann kemur og veslist vegna þess enn meira upp af sótt. Verða þær þá næsta gagnslitlar, með því að þær geta eigi fætt lömb sín sumar hverjar, svo skera þarf undan þeim, en hinar klekja þeim upp litlum og mögrum, og verða þau þá upp frá því rírðar skepnur. Nú verða fleiri eða færri af ánum geldar og hinar mjólka lítið, og að haustinu varla á vetur setjandi. Ullin á þeim nær aldrei mikilli sprettu, auk þess, sem hún týnist af þeim út um hagann, vegna þess eigi má taka hana af þeim, ef að þær eiga ekki að krókna sökum nektar ef illa viðrar, Mundi nú eigi 20 ær velhaldnar frá fyrstu verða arðsamari í þessum sveitum, og hvað þá 30 til 40 ær, sem, ef til vill, hefðu getað verið velhaldnar af því fóðri, sem hinar 50 eyddu. Þótt nú að nokkru betur kunni að farnast jafnvesælum skepnum í hinum landbetri sveitum, þegar góð tíð og gróður gefst. Sumir bændur, sem hafa góða sumarhaga, segja, að eigi mjólki betur, þó ær sjeu feitar; en þetta sannar ekkert, og er ekki rjett álitið; ær sem vel líta út mjólka betur lömbunum, og er það

mikils vert, að í þau komist dáð, þó eigi mjólkaði betur úr því; enda munu ær hjá þessum mönnum verða feitastar þegar nægar jarðir eru á vetrum; en alstaðar mjólkar betur af heygjöf, enn útigangi. Það er ekki heldur til vonar að skepnur umskapist mikið, þó þær gangi vel undan einu sinni, eða tvisvar á æfinni. Sú góða meðferð á fjenu þarf að verða ættgeng í nokkra liði, til þess að fá vissu í þessu efni, ef nokkrum þykir það efasamt.

---

## 4. atriði.
## Um vetrarhirðingu fjárins.

---

### 1. grein.
### Um fjárhúsin.

Tilskipun um fjárhúsabygging segir svo: Fyrir 20 sauði skal hús vera 10 áln. á lengd og 6 áln. á breidd. Ef minna hús var byggt, varðaði það 1 rd. útlátum. Þetta var mikið þarflegt fyrir fjárræktina, hefði þessari tilskipun verið hlýtt; en efnaskortur fátæktra búanda hefur verið því til fyristöðu. Þetta fer nærri því sem í bónda segir að 9 □ fet þurfi að ætla sauðnum, og er það fullkomnasta og bezta húsrúm, því sjeu veggir 3 áln. á hæð, og nógu margir gluggar, þarf ekki að óttast fyrir ofmiklum hita; en

eptir tilskipuninni verða krórnar ofmjóar fyrir fullorðna sauði, þegar garðinn er 3 feta breiður eins og hann þarf að vera og 5 kvartil á hæð. En á hinn bóginn er lengdin óþörf; því þó þverkróin væri höfð 3 álnir á breidd, verður garðinn 7 áln. hvoru meginn handa 10 sauðum, fær þá hver tæp 3 kvartil af jötunni. Legurúmið verður hið sama, hvort heldur þessi tilhögun er höfð eða þá húsið breiðara, en styttra. Ef garðinn er ekki hafður lengri, enn þörf gjörist fyrir jafn margar ær, mundi það vera nægilegt að húsið væri frá 8 til 9 áln. á lengd; en með sömu breidd. Væn lömb þurfa sama húsrúm og ær, því þau eru víðast meira inni, og lús og kláði sækir mest á þau, nema hvað jatan fyrir þau þarf eigi nema 5 kvartil á breidd og 1 al. á hæð. Vildu menn nú eiga hús í fjelagi eins og vikið er að í 2. atr. 4. gr. mundi það þurfa 7 til 8 áln. á lengd og 6 á breidd fyrir 16 ær. Ekki má grafa húsin niður nema í hið mesta um taðþykktina. Einsömlu grjóti skal hlaða innan veggja, og ekki lægra, enn 1½ al. í þeim húsum sem fullorðið fje er hýst í. Ef torf er haft í milli steina jezt það úr og svíkur vegginn. Það er og áríðandi að hafa brúnása, og sparar það fremur trjávið, með því að raptarnir fúna þá eigi. Stoðum undir brúnásum má ætla sæti á steinasniddum efst á grjóti. Vel skal um þök og dyr

búa á fjárhúsum; því inndrep og leki á fjeð er því skaðlegt. Sjeu eigi brúnásar hafðir í fjárhúsum, skal svíða raptaendana, sem á vegg liggja, svo að kolhúð komi á þá og láta hellublað undir þá; fúna þeir þá síður. Það má fullyrða, að gott húsrúm sparar allt að þriðjungi gjafar, einkanlega handa því fje, sem iðuglega er beitt; því hitinn í húsunum, sem optast fylgir þrengslunum, hefur fleiri skaðlegar afleiðingar, enn almenningur hyggur. Húsþrengsli spilla ull og standa fyrir þrifum og gjöra fjeð kveifarlegt og óþolið, þegar það þarf að vera úti í köldum veðrum. Þegar húsrúm leyfir er gott, að hafa dálitla stíju úr einu horni hússins til að geyma mylsnu í, sem bera þarf í húsin. Þó svo kalt sje á útigangsfje að húsin liggi við að frjósa þegar hörkur eru langstæðar, kemur eigi að sök; en þyki kuldinn verða um of, má byrgja suma glugga. Ekki skulu fleiri, enn 2 hús standa saman, svo eigi verði of heitt í þeim.

## 2. grein.

## Um snögglega umbreytingu hita og kulda, og um gjafatíma.

Barón Hastfer[1] hrósar mikið útigangi fjár-

[1]) Það er til rit eptir barón Hastfer, sem snúið er á íslenzku og prentað 1761. Talar það mest um fjártingun af útlendu kyni og meðferð á fje. Magnús sýslum. Ketilsson fylgir víða meiningum hans.

ins hjá oss Íslendingum og segir að hann gjöri fjeð hraustara; en þar hjá, að hin iðuglega snögglega umbreyting hita og kulda, sem fjeð verði að þola á vetrum hjá oss hafi miklar og skaðlegar verkanir á það, einkum í tilliti ullar; og verður eigi á móti því haft. Að vísu fer ullarvöxturinn eptir kyni fjárins; en þó má sjá, að þær skepnur, sem aldrei koma í hús allan veturinn, hvort heldur þær ganga á fjöllum, eða við sjó, hafa meiri og betri ull, heldur enn þær, sem hýstar eru. Nú er oss það ómögulegt, að halda fjenaði vorum án húsa; en eptir því, sem þau eru rúmbetri og kaldari, verður umbreyting hita og kulda minni, og þó enn minni, ef þeirri reglu væri stöðugt fylgt, að beita fje aldrei í miklum frostum og vondu veðri, án þess að hressa það með dálítilli heytuggu áður. Eykur það skepnunni dug til að þola kuldann, þó hún sje eigi svöng áður. Ekki er' heldur svo kalt í nokkru húsi, að sauðurinn volni eigi í bælinu; en það jafnast af innkuli í húsið við umganginn og rótið á fjenu, sem verður þegar gefið er áður, enn það fer út; þó skal láta það út jafnskjótt og það hefur lokið gjöfinni. Má sjá, að fjenu bregður minna við kuldann, enn þegar það er rekið volt út úr bælinu. Þegar gefa þarf með jörð á hverjum helzt tíma vetrar sem er, á að gjöra það að morgni, ef eigi þarf að gefa meira, enn þriðjung

gjafar; því auk þess, sem áður er talið, heldur fjeð sig þá betur og jafnar að jörð og velur betur kjarnann, þegar svo hagar beit. Með þessu gjafalagi heldur fjeð betur og jafnar holdi; en þegar það á von á heyinu og fær það á hverju kvöldi, hættir það, ad bera sig eptir jörðinni sumt, ef til vill, um miðjan dag, þó gott ástöðuveður sje, og hjá því sje verið, sem vera ætti sem optast þá því verður viðkomið. Það er enn ein nytsemi þess, að gefa að morgni dags, að fjármaður getur vitað, ef einhver skepna er eigi heilbrigð, áður enn hann rekur til haga. Þegar ekki verður látið út á sama tíma og vant er, þá skal þó gefa í sama mund sömu gjöf og þá liggur eigi á að gefa aptur fyr enn útsjeð er um það, að eigi verði látið út. Eins má láta út seinni part dags, þó meiri hluta gjafar sje búið að gefa, ef veður batnar; sje næg jörð og eigi þurfi langt að reka hefur fjeð lyst á jörðinni um stund; en ekki má svelta skepnurnar alveg þangað til alveg er sjeð út um, að eigi verði til beitar haldið þann dag. Þegar meira þarf að gefa með jörð, enn gjört er ráð fyrir hjer að framan, svo gefa þarf líka að kvöldi, þá skal fremur gefa betra heyið og þá minna áður enn út fer; en lakara heyið þegar inn kemur.

## 3. grein.

## Um meðferð á haustlömbum.

Þegar lömb koma af fjalli á haustum, kemur þeim vel, að hafa sjálfræði nokkurt og jafnframt sem mest næði; enda er það öllum skepnum hollast. En þessu verður eigi alstaðar komið við; því þar sem þröngbýlt er og landlítið, verður að hafa lömb og geldfje í vöktun með ám. Háir slíkt ónæði lömbum allmikið, og þarf að gefa þeim snemma hey fyrir þá sök, þó jörð sje auð og tíðarfar bærilegt, ef að þau eiga ekki að verða mögur. En það skyldi hver maður varazt, að láta fje leggja af. Það hey, sem með þeim hætti dregst til muna hinn fyrri part vetrar, er eigi í raun rjettri sparað, því þeim mun meira hey þarf að gefa hinn seinni hluta vetrarins, má og vera, að ei hrökkvi til. Þar sem högum er svo háttað, að geldfje megi hafa í annari átt, enn kvífje, er bezt að hafa lömbin með geldfjenu; og mega væn lömb ganga með því allan þann tíma, sem þau kviðdragast eigi, ef land er áreiðanlegt, enda mun það eigi verða, að lömb kviðdragist öllu fyr, enn veturgamalt fje. Öðru máli er að gegna um þau lömb, sem ung eru í aldri, eða voru ljeleg, þá þau voru tekin undan ám að vori, og verður að gefa þeim fyr með. Bezt fara lömb með sig, ef þeim verður haldið til beitar sjer í lagi fyrra hluta vetrar; því, þegar

snjór er kominn; en krapsturjörð er góð, hafa þau minna rennsli, enn fullorðið fje, ef að þau mæta eigi umgangi af því. Þá væri og æskilegt að hafa byrgi handa lömbum, er þau geti bælt sig við framan af vetri — er það og ómissandi fyrir annað fje — þar sem beitlönd eru í fjarlægð; en verjast eigi snjófergju nema stöku sinnum og það framan af vetri, svo eigi er kostandi til að byggja þar hús.[1] Þegar lömb eru tekin í hús, skal vandlega gæta þess, að það sje kalt og rúmgott. Lömbunum skal gefa svo hollt hey, sem föng eru á, og láta þau út á hverjum degi, þegar svo viðrar, á meðan þau eru að læra átið, og upp frá því er bezt að beita þeim ef bærilegt er veður og jarðir nokkrar. Þó má eigi ætla þeim langan rekstur nje jafnlanga útivist og fullorðnu fje; enda þarf að gefa þeim vel með, svo að þau leggi eigi af. Lömbum skal gefið að morgni, og að kvöldi ef svo mikið þarf að gefa. Haldist jarðir allan vetur, þá má beita þeim með sama hætti allt af, og taka þau engu að síður framförum, einkanlega þegar kemur fram á útmánuði, og þurfa þau eigi hey til muna, hinn seinni hluta Góe og á Einmánuði ef bærilega viðrar. Þau taka snemma vorbata, enda verða þau vænni hið næsta haust, og betri til beitar veturinn þar á eptir, enn þau lömb, sem

[1]) Það skyldi hver maður gjöra, að beita fyrst þá haga, sem fyrst leggja undir og eru í mestri fjarlægð.

gefið er inni allan veturinn, nema þeim verði sleppt því fyr í yfirtaksgóða haga. það fer og að líkum, að skepnur þær, sem engum kulda venjast allan veturinn þoli miður kulda og illviðri, sem fjenaður má opt sæta eptir að hann er farinn úr búhögum. Fyrir því væri það bezt, að venja lömb alstaðar útigangi, þó lítil eða engin heydrýgindi yrði að því. En einnig má gjöra ráð fyrir því, að lömb þau, sem úti hafa legið, setjist alveg í hús og verði alls ekki beitt meðan þau læra átið. Er þá vandasamt að fara með þau; því hin stórfelda umbreyting er þeim óeðlileg og óholl og getur valdið kvillum. Eins og áður er sagt skal gefa þeim í fyrstu ljett hey og hollt, og eigi meira, enn svo, að þau vinni upp, skal og viðra þau úti þegar veður leyfir. Gjöfina þarf að auka eptir því, sem þeim vex lyst á heyinu, og þegar þau eru orðin vön inniverunni, skal smásaman fara að gefa þeim þunglífara hey. þess ber að gæta, að lömbin líði eigi nauð af þorsta. Ef menn verða varir við lús eður kláða á þeim, skal þegar í stað bera lúsameðal ofan í þau; en þó lítið og með gætni, og má heldur gjöra það aptur ef eigi hrífur. Ef lömb standa stöðugt við, þá er bezt að bata þau hinn fyrri hluta vetrar, og skal þann tíma gefa þeim kvöld og morgna; en þá þorri er kominn, má minnka gjöfina og færa hana saman, og loks gefa eigi nema eina gjöf á

dag, ef lömbin hafa náð talsverðri framför áður. Þurfi nú lömb enn að standa við alla útmánuði, er óhætt að gefa þeim (þegar komin er Miðgóe) þriðjungi minna hey, enn þá, er þeim var bezt gefið, og mega því með góðri hirðingu og sama heyi haldast væn.

## 4. grein.

## Um hirðingu á ám.

Ær þarf að hýsa á haustum jafnskjótt og vetrarveður átt kemur, og það því heldur sem fyr spillist; því bæði eru þær þá ullarminni, kulsamari og magrari. Það skyldi hver fjármaður varazt, að láta ær leggja af áður, enn farið er að hára þeim; og skal einnig gjöra það að morgni; fylgja þær sjer þá að jörðu allt eins vel og eigi væri gefið. Þar, sem fje hefur mýrar eða valllendi með kvisti, þarf eigi að gefa framan af vetri meðan töluvert nær til þess, enda eru það þeir beztu og þolnustu hagar til beitar. Ær skyldu eigi leggja af fyrir brundtíð; verða þær því ljettari á fóðrum þegar út á líður, sem þeim er lengur haldið við hold fram eptir vetrinum. Einkum er það áríðandi í landljettum sveitum, þar sem ær ná litlum eða engum haustbata, að gefa þeim með jörð vel snemma, og það er ómissandi að bata þær fyrri hluta vetrar. Það má virðast sem þeim sje nokkur vorkun, sem ætíð mega eiga þess von að taki fyrir jarðir, þó þeir dragi lengur að gefa; en

þetta er þeim þó einber skaði, ef fjeð leggur af. Þegar ær leggja af hinn fyrri hluta vetrar, þurfa þær að hafa gott og mikið hey hinn seinni hlutann þangað til þær fá nægan gróður, ef þær eiga að geta komið vel upp lömbum sínum. Má vera, ef að þetta brestur eigi, að þær mjólki betur, enn þær ær, sem vanta heygjöf á vorin, þó þeim sje haldið við góð hold fyrri part vetrar; enda þurfa þær meira fóður. Það er ómissandi, og allir, sem þess eiga úrkosti, gjöra það líka, að geyma lambfje bezta heyið. Búa má ær eins og kýr undir burð með því að gefa þeim gott eða töðugæft hey, þó ráða hagar því miklu, hvernig mjólkar þegar frá líður.[1] Optast eru ær með þrennu móti, og ber því nauðsyn til, að hafa hús handa hverjum fyrir sig, svo að þær geti fengið þann viðurgjörning, sem hlýðir. Í fyrsta flokki eru hörðustu og þrifnustu ærnar, í öðrum beztu mjólkurærnar og í hinum þriðja ær á 2. vetur og á 3. vetur þær, sem bezt hafa mjólkað. Þessum ám, sem seinast eru taldar, má eigi ætla, að vera með þeim eldri, ef að þær eiga ekki að verða of magrar; því bæði eru þær vandætnari og seinni að jeta; en hjá flestum vantar opt heyföng til að gefa svo mikið, að hinar yngri ær fái leyfar hinna eldri.

[1]) Olafur amtm. Stefánsson segir — og ber hann Aristóteles fyrir því —, að, ef fje sje iðuglega látið drekka salt vatn, þá búist það miklu fljótar og betur á vorum undir sumargagn og gangi örara um brundtímann. Þessu yrði nú helzt komið við við sjóarsíðu.

Svo skal tilhaga, að ær á 2. vetur beri eigi fyr, enn þá 4 vikur eru af sumri; því optast fæða þær miður lömb sín, enn hinar rosknu; verða þær örsuga, ef þær bera snemma, og hnekkir það eigi alllítið framförum þeirra.

## 5. grein.
## Um hirðingu á sauðum.

Því er eins varið með sauði, sem ær og lömb, að það er bæði skaði og óráð, að þeir leggi mikið af og kviðdragist snemma á vetri; því þá missa þeir mör um leið og þeir missa kvið. Skal því heldur gefa þeim fyr með, svo að þeir haldist bæði við hold og kvið. Þegar svo er aðfarið, verða þeir ljettir á fóðri hinn seinni part vetrarins, ef útbeit er og jarðir; má og gjöra ráð fyrir að þeir verði þeim mun ljettari á heyi þó þeim þurfi að gefa inni; og að lokum verða þeir betur undirbúnir til skurðar; því bezt skerast sauðir, þegar þeir ganga undan í góðu útliti og gott vor kemur upp á. Sauðum á 2. vetur þarf að gefa eins og veturgömlum ám til miðs vetrar; en úr því verður í engu líkt saman fóðri þeirra. Margir fresta því of lengi, að gefa sauðum, eins og öðru fje; en gá eigi þess, að þeir hafa minni kjark til að fylgja sjer að beit fyrst þegar vetraróblíðan kemur eptir góða sumar- og haust-tíð, heldur enn seinna, þegar þeir hafa vanizt henni. Víst

er um það, að eptir því, sem lengur líður á veturinn eptir því eykst fjenu þol og dugur þegar stöðugt verður beitt og því er haldið í góðu útliti framan af; en þegar það verður snemma magurt verður útbeitin eigi notuð þegar út á líður eins og annars hefði mátt, fyrir þá sök að það er eigi fært um hana. það skal hver fjármaður varazt, að beita sauðum með ám fyr enn brundtíð er úti; skemma þeir sig eigi alllítið á því að sækja brundinn, enda verða sumir þeirra á því kviðlausir, og fyrir þá sök þarf miklu heldur að gefa þeim. þetta getur og valdið því, að ær beiði fremur upp. þó sauðir kviðdragist á vorum þegar allur snjór er leystur, kemur að minni sök. Á vorin fara þeir að velja og tína grænku, og svelta sig á því, en halda þó, ef til vill, holdi og fitu; þó væri það óskanda, að þeim yrði gefið vel endur og sinnum, svo að þeir hjeldu betur kviðnum. þegar sauðir eru góðir, eða venju betri til skurðar á haustum, skyldi enginn sjá í að skera þá jafn vel fleiri, enn hann í það skipti þættist þurfa fyrir bú sitt; því við því má búast, að þeir verði lakari næsta haust, og er það tíðast að svo fari, að búandi verði að skera þessa sauði hið næsta haust, en taki skaðann einan í aðra hönd fyrir vetrarfóðrið. Af veturgömlu fje skyldi helzt skera það, sem veikzt hefur af einhverjum kvillum lambsveturinn svo að þeir verði eigi ættgengir með fjenu, eða valdi því seinna dauða.

## 6. grein.

## Um útlátning, rekstur og tilhögun beitar.

Fjármaður þarf að vera snemma á fótum hinn fyrri hluta vetrar, þegar dagur er stuttur, til að láta fjeð út í dögun þá veður er bærilegt, því þó það fje fylli sig eins vel, sem seint fer út, eða hefur stuttan beitar tíma, þá heldur hitt þó betur holdum, sem hefur hann langan. Þegar búið er að láta út, skal reka kippkorn frá húsi, láta svo fjeð beita sjer sjálft, ef svo er snjóljett, að því verði komið við, halda síðan hægt á eptir því þangað til það er komið svo langt, sem það á að fara. Sömu aðferð skal hafa á heimleiðinni. En þegar snjór er mikill, skal eins reka skammt frá húsi, og beita svo fjenu um stund, taka því næst framgjörnu og ljettúðugustu kindurnar og reka þær á undan; en aldrei nema lítinn spöl í senn, hitt fjeð fari í sporaslóð á eptir þangað til það er komið í aðalbeitlandið. Sömu aðferð skal hafa heimleiðis. Nú er það á sumum jörðum að beitiland er í fjarlægð, svo að reka þarf langan veg til beitar; þá skal aldrei reka fjeð harðara, enn það vill ganga sjálft, hvorki að beit, nje af henni, og eigi brúka hunda við það nema nauðsyn beri til; því að harður rekstur háir fjenu mikið. Það er, því miður, siður sumra manna, að drífa fjeð áfram með hundum, hversu mikil ófærð, sem er, svo að það er komið að niðurfalli af mæði og lúa,

er það er komið í beitlandið, og þarf því að hvílast, ef til vill, langan tíma áður, enn það fer að krapsa. Að halda fje, einkum ám eða lömbum til beitar, í vondu veðri og miklum hörkum er opt meiri skaði, enn ábati, sjerdeilis þegar íllt er til jarðar, og um fram allt shyldu menn varazt að halda því þá lengi úti. Það skyldi og enginn gjöra, sem annars á úrkosti, að sýna fje sínu nokkurt harðræði, eða draga af því mikla gjöf fyrst í stað, er það hefur lengi staðið inni, því þá hefur það misst harðfengi og dug til að þola útivist og beit. Aldrei er eins hætt við, að fje verði magurt eins og þá opt skiptist á beit og innistöður, svo nokkrum tímum nemi. Þó hirðusömum og góðum fjármanni verði, ef til vill nokkur ávinningur í því, að beita nálega hvaða veður sem er: þá verður það öðrum, til óhagnaðar; með því að hinir fyrtöldu fylgja fje sínu eptir og sjá til með því þegar eitthvað er að veðri. Húsbændur skyldu sjá um, að staðið sje hjá fje, eða að öðrum kosti eigi útlátið. Því hirðuleysi verður engin bót mæld, að reka fje út í vont veður með hörku og hraða, og hlaupa síðan frá því og vita eigi framar hvað því líður. Má vera, að sumt liggi frosið í kröpstrunum eða standi sjer til nauða, en sumt renni heimleiðis aptur sömu slóðina, og er það þá vandi latra og skeitingarlausra fjármanna, að senda hunda á móti því, og með slíkri aðferð halda því úti

allan daginn, og loks þegar það kemur heim að kvöldi, láta það liggja eða standa lengri eða skemmri tíma við húsdyr, sem því er mjög skaðlegt. Fjárhundur sje þannig vaninn, að hann sje aptastur, þegar fjeð rennur í sporaslóð, hann sje geltinn; en þegi þegar honum er sagt. Sá hundur, sem eigi verður þannig vaninn, er eigi hæfur til að vera fjárhundur að vetri. Jafnan skal reka undir veður, þegar eitthvað er að því, verður þá hægra að komast heim, ef að spyllist.

## 7. grein.
## þegar fje stendur inni.

Í harðindum, þegar fje stendur inni, verður að haga gjafalagi eptir heygæðum, eptir útliti fjarins, og eptir því, á hverjum tíma vetrar er. Þegar hey er gott, þarf eigi að gefa fullorðnu fje optar, enn einu sinni á dag, ef það er í útliti; heldur það þá betur kviði. Þó skal láta fjeð út til að jeta snjó, er það hefur lokið helming gjafar, og aptur er það hefur lokið henni allri. Lömbum skal gefa tvisvar á dag hinn fyrri part vetrar; en úr því komið er fram á mánuði þarf eigi að gefa þeim optar enn einu sinni, sjeu þau í góðu útliti. Má þá smátt og smátt draga við þau, og færa gjöfina saman; en varast skal að gjöra það snögglega. Þegar hey er slæmt, ljett, eða illa verkað, dugir eigi að gefa eina fylli í sólarhring, með

því fjeð hefur þá eigi heldur lyst á svo miklu í einu, og þarf þá að gefa kvöld og morgna, og sjá til að það fái vel að jeta snjó, ef það hefur eigi vatn, sem því er betra með slæmu heyi.[1] Má og opt vera, að snjór sje eigi til, eða svo vel lagaður, að fje geti jetið hann að þörfum, er það hefur þorstlátt hey. Fyrir því ber nauðsyn til, að brynna því, og er það allvíðast hægt. Ef fjeð getur eigi sjálft náð til vatns, má hafa stokk hjá vatnsbóli og brynna fjenu í honum, þó eigi nema úr einu húsi í senn. Þegar fje stendur inni, þarf eigi að brynna því fyr, enn það er búið að jeta, sje eigi hey því verra. Eins þarf að brynna fje, eða snjóga því, þó því sje beitt, ef því er gefinn þriðjungur gjafar, heldur það þá betur kviði og holdum. Þá getur það enn aðkomið, að brynna þurfi, þó eigi sje gefið; það er þegar jörð er snjólaus og einkanlega hjeluð.

Vandlega skal hrista hey handa öllum skepnum, og sjá um, að það slæðist eigi, eða misjetist, og er hæfilegt fyrir einn mann að hafa 2 hús til umsjónar í senn ef skammt er í milli þeirra. Jafna skal heyið sem bezt og kljúfa eptir miðri jöt-

[1]) Þó sumir vísindamenn segi, að snjór sje hollari, enn vatn vegna seltunnar, sem í honum sje, þá getum vjer þó eigi verið þeirrar meiningar; því ætíð velur kindin það, sem bezt á við hana, og kýs hún miklu heldur vatnið, enn snjóinn er hún hefur um hvortveggja að velja.

unni seinast áður, enn skilið er við. þess skal fjármaður gæta, að gefa í sama mund, einkanlega þegar lítið er gefið. Engar rekjur þurfa að ganga úr, ef hey er nýtt og vel verkað, hverri helzt skepnu sem gefið er; og skal venja þegar ungviði við að jeta þær með, enda gætir þeirra lítið, þegar þeim er eytt jafnframt hinu heyinu, og spillir það í engu gagnsemd nokkurrar skepnu. það er hverjum búmanni áríðandi, að vanda þurk og hirðingu á öllu heyi, sem bezt má verða, því arður fjárins fer að því. Mestan krapt missir hey, þegar kemur ofan í það þurt eða því nær, eða þegar það er látið standa varnarlaust úti tímum saman í sæti eða bólstrum áður enn það er bundið inn. það varðar og miklu, að vel sje gengið um hey og að það sje haganlega dregið (leyst).

## 8. grein.
## Um hirðingu á húsum.

það er áríðandi, að húsin sjeu vel hirt, svo að fjeð liggi eigi í mikilli mylsnu, ló eða heyhroða; þó er því enn skaðlegra, að blautt sje undir því, svo það verði óhreint, einkanlega þegar því er beitt. Hvortveggja skemmir ull; mylsna og hroði eyðir henni og jetur alla mýkt og segju úr henni; en of mikil bleita gjörir hana gula og óverkulega. þegar hús mylsna ákaft, skal á hverjum degi væta þau lítið eitt annaðhvort með snjó

eða vatni, helzt meðfram veggjum og jötu, eða að öðrum kosti sópa mylinu burtu. Það er aðalreglan, að húsin sjeu hvorki svo blaut, að fje verði óhreint og eigi heldur mylsnuð meira enn svo að þau lói og það, sem slæðist niður liggi að eins laust ofan á taðinu. Á hverjum degi skal verka húsin með hrífu, þá fjeð er úti, og tína heyið úr lónni; en þegar inni stendur, er bezt að gjöra það tvisvar á dag, áður enn farið er að gefa fjenu, og þegar það er búið að jeta. Með slíkum hætti verður heyið, sem niður slæðist að mestu hreint og fullgott handa hestum. Bezt er að stinga eigi út fyr, enn á vorum, verður þá taðið bæði drygra og kraptbetra til hvers, sem það er haft; fjenu bregður þá og ekki við það, að hækki á garða. Ef fje vill stökkva á jötur, þegar lágt fer að verða á þær, þá má negla borð eða spírur fyrir ofan jötubönd, eða strengja bönd, ef hvorki borð eða spírur eru til.

## 9. grein.

## Heyskammtur þegar fje stendur lengi inni.

Það fer eptir heygæðum og útliti fjárins hvað mikið þarf að gefa, þegar við stendur; sömuleiðis er það og mikið komið undir húsi og hirðingu. Vel hirt lömb í góðu húsi batna að holdi, hafi hvert þeirra til jafnaðar dag hvern 3 merkur heys, sem sje gott og velverkað; þarf lambið þá í 20 vikur

21 fjórð. af heyi, eða 2 bagga af meðal bandi. En standi lambið stöðugt við svo lengi, má minnka við það gjöf seinni partinn, svo að hey þetta getur enzt lengur enn í 20 vikur; en sjeu lömbin mögur þegar þau setjast að, þurfa þau meira hey. Af jafn miklu og jafn góðu heyi helzt ærin við, ef hún er tekin í hús í góðu útliti úr sæmilega góðum högum standi hún stöðugt við; en auka þarf gjöf við hana, þegar kemur fram á Einmánuð og um sumarmál. Geldur sauður helzt við með töluvert minna af sama heyi, ef hann er tekinn feitur í hús. það þarf víðast til sveita, að ætla ánni meira fóður, enn lambinu, ef hún á að verða í góðu standi; því optast þarf töluvert að gefa ám á vorum, þó gemlingum sje lítið eða ekkert gefið. þó að lömb sjeu eigi svo vel alin, eins og Ólafur stiptamtmaður kallar mátulegt, að þumlungs hornahlaup sjeu komin á þau að liðnum jólum og þau sjeu laus við ull alla fyrir sumarmál —: þá verða þau þó laus við kirking og eru óskemmd.

## 10. grein.

## Vetrarfóður skal samsvara sumarhögum.

þar sem sumarhagar eru afbragðs góðir, verður fje því vænna, sem því er betur gjört til; en sjeu sumarhagar ljettir, verður mikið eldi að litlu gagni. En það er geldfje, sem hjer ræðir um. þó eru hvergi svo ljelegir sumarhagar, að eigi sje

betra, að sauðurinn sje með fullum kröptum, og lömb taki nokkrum framförum. Í landljettum sveitum mjólkar ærin því betur og lengur fram eptir sumri, sem henni er betur gefið; enda verður hún að öllu gagnlítil, ef hún er mögur, eins og vjer höfum áður sagt. Það er og víða þar, sem land er ljett, að hey er gott til mjólkur. Allt fjörufje er því arðmeira, sem það gengur betur undan, og við ekkert fje þarf eins mikla varúð að hafa eins og það, sem mikið gengur í fjörum; því brúnsljettur sauður er opt merglaus, hafi hann lítið fóður haft með þaranum. Magnús sýslum. segir, að þarinn sje fremur til að melta fæðuna, enn til saðningar, og seltan gjöri fjeð hraustara til að jeta hana. Bitfjara hefur tvöfalt meiri krapt, enn þarinn.

## II. grein.
## Um fitumerki.

Af því að mönnum kemur ekki saman um, hvað kallast megi brúnsljett, og bjórhált, þá þykir oss það eiga vel við, að setja hjer grein úr ritgjörð Ólafs stiptamtm. um gagnsmuni af sauðfje; og skýrir hún þennan hlut vel fyrir mönnum: „Fitumerki á sauðfje hafa gamlir menn viljað láta vera 5. Þeir hafa kallað sauðinn brúnsljettan, farinn að skarða, bjórhálan, bláskarða, eða kominn á merg. Brúnsljettur er sauður sá, á hverjum bringukollsbrúnin báðu megin fram og

aptur er jafnsljett og skarðalaus, svo vel flýtur yfir alla liði hennar. Þegar fyrsta skarð finnst í bringukolli að framan næst hálsi, er sauðinn farið að skarða; er hann þá þeim mun megri orðinn, þegar til þriggja eða fleiri skarða finnst aptur eptir bringu. Ef bjórinn eða skinnið er vel laust við bringuteina, svo því verður ekki einasta nuddað til og frá, heldur finnst hold eða fita undir því á bringuteinum sauðarins, kallast hann bjórháll. Megi finna til allra skarða í bringunni og sjeu þau farin að verða djúp, þá bláskarðar hann. Þá heitir og að hann sje kominn á merg — það er: hími í að vera mergjaður. Merglaus er sauður sá, sem ei kemur standandi niður, er hann er látinn detta meðal manni af bringu til jarðar. Þessi lýsing á nú að vísu ekki við um alla sauði; því á sumum skarðar bringuna seinast að framan; og er það merki á þrifagóðum kindum, þegar mest feiti er framan og neðan á bringukollinum og svo aptur eptir röðinni; verða þá bringuteinarnir holdlausir fyr, enn nokkurt skarð finnst í röðina; og geta þessar kindur verið merglausar áður, enn bláskarði. Þá á kölluðu gamlir menn forsvaranlega fóðraða, sem brúnsljett væri í Miðgóe; en bjórhál á sumarmálum, ef þá væri farið að gefa henni til mjólkur þar til hún fengi gróður; en vjer höldum það nauðsynlegt og ómissandi, að ærin sje vel brúnsljett þegar hún ber.

---

# 5. atriði.
# Ýmsar athugasemdir.

---

## 1. grein.
## Um að hornskella fje.

Magnús sýslum. Ketilsson skipar, að horntaka lömb á haustum og kringja enda hornanna með hníf, svo að þau reiti ekki af sjer ullina með þeim, og er þetta nauðsynlegt. En þó lömb sjeu horntekin, þá þarf stundum að gjöra það aptur á fullorðnu fje; því bæði reitir það af sjer ullina, eins og lömb vegna kláða, sem á það kemur þegar það þarf mikið að vera inni — er þá ómissandi að bera í það lúsasmyrsli —, það vill og opt til, að fje krækir sig (í sjálft sig) og stundum vill svo til, að það festir hornin á viðarhríslum eða hraunsniddum; þess eru og enn dæmi, að sauðir og einkum hrútar festi sig saman á hornunum, og einnig þess að þau vaxi inn í höfuð þeirra.

## 2. grein.
## Um að taka ull af fje.

Forfeður vorir hafa viljað, að sú regla væri viðhöfð, að taka ull af fje með vaxandi tungli, og er hún engan veginn lastandi, ef því yrði viðkomið. Hefur það eflaust sömu þýðingu og að slá þá jörð, sem maður vill að fljótt spretti aptur, með vaxandi tungli. Þegar fje lítur vel út og ull-

in er föst á því, skyldi klippa það; verður ullin þá betri, enn þegar hún er slitin og táin öll í sundur, auk þess, sem það er hin mesta kvöl fyrir sauðinn. Það vill og opt til, að sumar kindur fyllist svo seint einkanlega, ef illa eru fóðraðar, að annaðhvort verður að sleppa þeim með reifinu til afrjettar, eða þá berum, sem getur valdið því, að þær krókni. En hafi menn klippur, þá má taka meiri hluta ullarinnar af því, en skilja því þó nóg eptir til skjóls. Ef sauðir taka bata einhvern tíma vetrarins, einkum ef það er á þorra eða snemma á Góe, missa þeir eigi ull á vorin þó þeir verði grannir.

## 3. grein.
## Um júgurbólgu.

Af öllum þeim tilgátum, sem vjer höfum heyrt um það, hverjar sjeu orsakir til júgurmeina á ám, þykir oss tilgáta Magnúsar sýslum. líklegust, þó vjer engan veginn segjum, að hún sje óyggjandi, eða sú eina rjetta. Hann segir, að líkindi sjeu til, að smá yrmlingar úr jörðu kunni að valda júgurmeinum, með þeim hætti, að þeir skríði á júgrin og jafnvel inn í þau þegar ærnar liggi. Það bezta meðal, er varni þessu, segir hann sje, að bera hráa tjöru á júgrið. Höfum vjer og styrkzt í þessari ætlun vorri. Það er kunnugt að lúsasmyrsli er þess eðlis að það drepi; og höfum vjer

reynt það á nokkrum ám, sem voru farnar að bólgna á júgrum að smyrja þau sem vandlegast með þessu meðali út fyrir alla bólgu, og hefur þá bólgan hjaðnað eptir á og eigi orðið að meini. En það er eigi líklegt að þetta meðal dugi, þegar stórkostleg spilling er komin í júgrið. Samt sem áður neitum vjer því eigi, að mjaltakonur geti verið valdar að því, að ær skemmist, með því að ljósta eða hnippa júgrin, og draga ærnar á þeim. Þá má og kenna þetta illum rekstri, og því, þegar ær hlaupa undan hundum, áður enn búið er að mjólka þær; og höfum vjer tekið eptir því, að mest tjón hefur orðið að skemmdum á ám, þegar þær hafa mætt slíkri meðferð, svo brögð hafi verið að; skyldu því smalamenn varast slíkt. Gamlir menn vildu, að búsmali væri rekinn langt og harðara í haga; en hægt úr honum, og mun sú aðferðin betri.

## 4. grein.
## Um vatnssótt.

Víða í sveitum er geldsauðum gjarnt að fá vatnssótt, og höfum vjer optlega fengizt við þennan kvilla. En með því að vjer höfðum eigi heyrt þessa kvilla getið við sjóarsíðu, þá höfum vjer í nokkur ár haft salt til að lækna hann, og hefur það dugað betur, enn allt annað, er vjer höfum reynt, sem þó hefur verið margt; og ekkert það meðal höfum vjer fengið, er hafi orðið að liði, þeg-

ar saltið eigi hefur dugað. Taka skal dálítinn matspón af grásalti, mylja hann vandlega og koma honum með lagi ofan í kindina, svo hún hvorki meiðist, nje nái að brjótast um; þá skal og varazt að láta henni svelgjast á, sem getur ollað því að hún spryngi, hafi hún lengi þjáðzt af kvillanum. Að nokkrum eða litlum tíma liðnum fer að renna úr sauðnum, ef inntakan dugir. þess þarf að gæta, að gefa honum að drekka á eptir, og væri gott að hafa til þess einirseyði. Á meðan vart verður við nokkra tregðu, skal gefa sauðnum inn dálítið af saltinu, skal og um nokkurn tíma gjöra þetta smátt og smátt, þó sauðurinn virðist að vera orðinn albata. Saltpjetur leystur upp í vatni, er einnig gott meðal við vatnssótt; en lítið og varlega þarf að gefa hann inn.

## 5. grein.

## Niðurlag.

Vjer höfum nú yfirfarið meðferð sauðfjárins, á hverjum helzt aldri, sem er, og hverrar tegundar, og leitazt við að sýna, að velmegun manna er eigi einungis komin undir miklum fjárfjölda, heldur og því, að eignin á fjenu, sje sem vissust og arðsömust, hvernig sem tíðarfari hagar. Samkvæmt þessari skoðun, ætti eigi að vera fleira kvikfje enn svo á hverri jörðu, að hún sje fær um að framfleyta því bæði með heyskap og útbeit,

þegar hvortveggja er hóflega og vel notað. það er bæði ánægju meira og arðsamara, að hafa ætíð meiri eða minni heyleifar eptir tíðarfari, og skepnur í góðu útliti, enn þó þær væri fleiri, og þá opt í vogun og gagnslitlar. Menn skyldu ætíð, er þeir vilja fjölga fje sínu, hyggja áður að því, hvert þeir hafi föng til þess, að fara vel með það ef fleira væri og jafnframt leita allra leyfilegra meðala til þess að geta það, t. a. m. með því að leggja stund á að yrkja vel jörð sína.



# Eptirmáli.

Þennan ritling vorn, sem að þjer, landar góðir! hafið þegar sjeð, höfum vjer borið undir 2 nokkuð fjölmenna fundi og þar að auki nokkra skynsama og góða fjármenn og hefur honum hvarvetna verið veitt eptirmæli; þess vegna höfum vjer nú ráðizt í, að láta hann koma á prenti fyrir almennings sjónir. Biðjum vjer yður, að virða á betra veg, og veita oss, sem eigi höfum verið settir til mennta, til vorkunar, þó ófimleg sje orðaskipun og hugsanir eigi í reglulegum samböndum. Minnizt og orðtækisins: „Fáir eru smiðir í fyrsta sinni.“

Höfundar ritsins.

## Leiðrjettingar.

| | | |
|---|---|---|
| Á blaðsíðu | 6[14] | 8. gr. f. 4. gr. |
| | 6[26] | júfurbólgu f. júgurbólgu |
| | 9[27] | eg f. og |
| | 10[22] | spylli f. spilli. |
| | 14[12] | þeirra f. þeirra. |
| | 14[13] | það f. það |
| | 14[17] | í þau. f. í þau, |
| | 19[1] | júfurstæði f. júgurstæði |
| | 21[4] | ledldar f. leiddar. |
| | 25[8] | lamið f. lambið |
| | 26[4] | skaðlegt, f. skaðlegt. |
| | 32[11] | 8. grein f. 9. grein |
| | 33[23] | jafnvesælum f. jafn vesælum. |

